## Framhald um Christindómsins útbreidslu í Heiminum.

Ad þetta þrennt: Gud, Sálin og Eylífdin sé þad mikilvægasta umhugsunar efni sérhvörri manneskju, sem breyta vill skynsamliga og christiliga, hljóta allir ad vidurkénna, jafnvel og þeir sem umhugsun þessari samvitsku-laust í vind kasta. Sjálf Skynsemin sannar þetta, þó Ritníngin þegdi. Hvi þarsem Gud er sú ædsta vera, undir hvörs nád ad öll manneskjunnar lucka komin er, þá er mesta þörf um ad þeinkja, hvernig þeim vera byrji, sem um þessa Lucku méga sér vissa von gjöra; þar sem Sálin er ædri partur veru vorrar, og hvör eiginliga á ad hafa samkvæmi med Gudi og gjöra hans vilja, þá liggur öllum ærid á, ad hugsa um, hvört Sála sín sé edur ecki sé, med því sinnislagi, sem Gudi líki; og þar sem Eylífdin liggur fyrir öllum, af því Sálin er ódaudlig, en kjör hennar verda eptir því farsæl edur vesæl í Eylífdinni, sem hún

fyrir Gudi breytt hefur, medan hún átti hér í líkamanum ad búa, þá er stærsta naudsyn á ad hugsa leingra fram, enn líf þetta tekur, já muna altid til þess, ad madur er á sífeldri reisu til Eylífdarinnar, ad hvørri ei veit nær enn komid er, og ad þá byrjast fyrst hans sanna Lucka edur ólucka.

Þetta kénnir ad vísu, sem sagt er, Skynsemin, en Ritníngin hrópar þó Sannleika þennan enn hærra. Vara þú þig, sagdi Móyses vid Israelsfólk, ad þú gleymir ecki Jehóva. Og fyrir Spámannsins Esajæ munn, sagdi Gud vid sitt Fólk: O, Israel gleymdú mér ecki! Ad um Sálina hugsa þurfi, sjest af þessum Jesú ordum: hvad stodar manninn þad, þó hann vinni allan heiminn, ef hann lídur tjón á Sálu sinni. Allstadar hvar Ritníngin minnir oss á daudann og dóminn, þar minnir hún oss undir eins á Eylífdina, því hennar vegna eru þeir óttaligir, ef illa fer. Þessvegna er nú umhugsan þessara hluta undirstada sannrar Gudhrædslu, og einginn er sá Gudhræddur né Gudsbarn, sem þá umhugsan ei temur sér. En hvørsu mønnum sé þó gjarnt til ad gleyma slíku, er reynslan sorgligasti Vottur ad; já Gudsbørn sjálf meiga alvarliga vara sig, ad Gleymska sú fái ecki hjá þeim yfirhønd, því annars missa þaug hans nád; þess-

vegna áminnti Christur lærisveina sína svoopt til ad vaka, og þad ecki sjaldnar enn til ad bidja, því Vakan er undirrót Bænarinnar.

Hvad er þá um hina ad tala, sem ecki hafa Guds Anda hjá ser; þeirra Líf er sífelldur andligur Svefn, og óminni þeirra óſýniligu hluta. Þeir heyra um Gud, Sálina og Eylífdina talad ad vísu, en þeir heyra þad allt sem í draumi; og þó þeir endur og sinnum tali sjálfir þarum, er tal þeirra sem þess er upp úr Svefni talar. Látum oss því vakna í Gudsnafni, og vakna til fulls, því ei er nóg ad rumskast, og sofna strags aptur. Sæll er sá sem vakir, sagdi Jesús. En hvad gjörir þá sá andliga uppvaknadi? Hann vinnur verk christiligrar kollunar. Hvor eru þá verk þaug? Sannarliga þad, ad erfida í Herrans Víngardi. Hvor er þá hans Víngardur? Þad er Heimur þessi, en Eykur og Aldini í honum eru manneskjurnar. O hvörsu litur þá þessi stóri Guds Víngardur aumliga út! Hinn mesti hluti hans stendur alþakinn þyrnum og þistlum, edur ávaxtarlausum og þurrum eykar bolum, hvorra allflestar sýnast ei til annars hæfar, enn ad uppboggvast og í eld ad kastast; og þvílíkt sýnist vera ástand allra heidíngja, Tyrkja og Gydínga; en þetta kémur mest af því, ad í þessum parti

Víngardsins finnast sumstadar eingir, sumstadar sára fáir til umhyrdíngar. Í ödrum stödum á ad sönnu ad heita einslags umhyrdíngar=mind sýnd, en er þó aldeilis raung, og þvert á móti þeim reglum, sem Víngardsherran settar hefur; og þetta er nú tilfellid vídarst í þeim catholsku Löndum, er þó christin kallast, og þessvegna er ei heldur von til, ad eykur Guds blómgist þar og beri góda ávexti. En nú í nockrum stödum Víngardsins, sýnist ad sönnu vera regluligri Umhyrdíngar móti brúkadur, en bædi er þad, ad þetta er vídahvar framar ad Sjón enn Raun, og líka hitt, ad þær rótspilltu eykur eru svo tregar til ad taka endurbót, ad þó í vissum stödum sé allsæmilig umhyrdíng sýnd, eru ecki nema fáir sem skipast til batnadar, en þær flestu eykurnar bera Villi=Vínþrúgur, hvörsu mikla Umsorgun sem Drottinn sjálfur hefur fyrir þeim látid hafa. Þetta er nú afmálan ástandsins vída hvar í þeirri próttestantisku kyrkju. Aldaskipti hafa ad sönnu verid, ad þessari Guds Víngards Spillíngu. Ádur enn Víngardsherran sjálfur kom sýniliga í heiminn, var ecki nema lítill reitur í hönum reglu͏liga ræktadur, og géck þó ræktan sú mikid misjafnt til, og færdi misjafnan ávöxt. En eptir þad hann sjálfur komid hafdi, tekist ræktunina á hendur og ként adferdina ödrum,

tók hún gódum framförum um hríd, og útbreid-dist vída um heiminn, einkum medan hörmúng-anna Skúrar fylgdu því góda Sædi; en undir eins og þeim tók nockud af ad léita, og ræktar-arnir fóru ad verda hyrdulitlir, kom megn spill-íng og rotnan aptur í Sykurnar, þó nöckrar gód-ar væru híngad og þángad í bland. Svona géck nú til á Páfadómsins uppkomu og framgángs tímum. Ad vísu tók einn lítill partur Víngards-ins gódri Umbót og eflíngu á Lúthers dögum og fyrst eptir þá, en þegar fráleid, tók en nú aptur ad hnígna, og sækja í þá gömlu Spillíngu. Svona hörmuliga hefur nú litid út í Herrans stóra Víngardi; og hvörnig skulum vér meina ad Eignarherranum lyndi þad? Þad sýnist þó, sem hann heitid hafi, ad önnur betri tíd skuli koma yfir Víngard sinn, og hann þá taka mikinn blómgunar framförum (sjá, medal annars, Amos 9, 13—15), — og vér vonum — mæla born þad vilja — ad þær gledi tídir færist ódum í hönd. Látum oss þessvegna vakna til ad erfida í Herr-ans stóra Víngardi, og þad er víst mark á öll-um þeim, sem réttiliga vaknadir eru, ad þeir gjöra þad.

Þeir erfida þá fyrst fyrir sinni eigin betrun og blómgun og sídan fyrir annara; því ómögu-ligt er þeim (þegar þeir sjálfir eru af Guds

anda innvortis (lífgadir) ad sjá uppá eda vita til, ad adrar eykur í Herrans Víngardi standi berar og bláfnar, og til einkis annars hæfar, enn eldrneytis Guds réttlæti, og ad taka sér ei slíkt nærri; þeir ecki einasta grátbæna þá Víngardsherran sjálfan ad senda trúa verkamenn í Víngard sinn, og géfa þeim sinn heil. Anda til adstodar, heldur og styrkja sjálfir til med ordum og verkum, hvad þeir géta; med ordum vid alla þá sem þeir umgángast med; t. d. einn Egtamaki uppbhvetur annan, Foreldrarnir bornin, Húsbændurnir hjúin, kunníngjar og Vinir hvoradra — ad eg ecki tali um þá, sem opinberliga eru kalladir til ad rækta Herrans Víngard — því ollum slíkum, ef Jesu Trú og kjærleika í sér hafa, er óþolandi ad vera afskiptalausir um annara Velferd, heldur enn sína, því þá sárkvelur ad hugsa til þess, ad nockur Sála skuli eylífliga fortapast; og nær þeir heyra hvorsu ad stór partur heimsins ráfar í myrkrum heidindóms, Mahómetsvillu og Júdatrúar beina leid til glotunar, fyrir utan fjolda þann sem í Catholísku Londunum afvegaleidist hrædiliga frá þeim rétta Lífsins vegi — ad ótoldum ollum þeim sem í hinum betur upplýstu Christninnar londum gánga blindir i byrtunni og snúa bakinu vid Ljósi guds nádar — þegar þeir heyra þetta, seigi eg, og íhuga, og undir eins þad,

hvörsu Gud vill þá alvarliga, ad allir umvendist og komist til sannleiks vidurkénníngar, bidja þeir ecki einasta af öllu hjarta fyrir umvendun þessara sinna Brædra og Systra af náttúrinni, heldur og í Verkinu vilja feignir miklu tilkosta, ad útsendir yrdu Verkamenn, til ad planta christindóminn hjá þessum þjódum, og þykjast aldrei betur hafa varid fémunum sínum. Þeir rádfæra sig þessvegna ecki vid hold og blód í sér edur ödrum um þetta — því þad er óhollur rádgjafi í slíkum efnum — heldur láta kjærleikan til Christs og sinna brædra þvínga sig til þessa réttnefnda kjærleiksverks, ad hjálpa þeim ódaudligu sálum til eylífs lífs. Eg vil þá þessu mikilvæga málefni til frekari Styrkingar framfæra — sem ádur í Ritum þessum — inntak einnar rædu, sem haldin var á Missións-Felags samkomu í Kaupmannahöfn, fyrir fáum árum, svohljódandi sem fylgir:

Eins og allar Fyrirtektir þær, sem átt hafa ad þéna til útbreidslu Gudsríkis á jordunni, svo hafa samtök þaug sem stofnud verid hafa, til ad umvenda heidíngjunum, alltíd mátt lída, ecki einasta Spott og Foragt Vantrúarinnar Sona, og hindranir af þeim, sem kjærari hafa veraldligan ábata enn andligan, heldur og sterka mótstrídu af þeim mönnum, er minst voru líkindi til, af

því sjálfir þeir báru nafn Kyrkjunnar Lærifeðra. Og, þó þetta ecki eiginliga skéð hafi í Föðurlandi vorú, þá hafa samt í øðrum løndum margar raddir hafið sig móti Missións-verkinu, og sett fram ýms mótmæli; hvør þó gransknðuð øll eru eins óstæðulaus, sem merki til skorts á hita þeim, er búa ætti í hjarta hvørs þess, er lætur sig christinn kalla. Þeir seigja tildæmis: „látum oss fyrst leitast við að umvenda manneskjum heima hjá oss, áðurenn vér tökum að hugsa til þess við heiðíngjana. Þessu er hægt að svara: því géta ecki þessir tvenslags aðburðir fylgst að, nl. að prédika ydrunn og Syndafyrirgéfníngu þeim christnu-heima hjá oss, og undireins boða þeim, sem búa í dauðans skuggadal, og orðið út af krossinum aldrei heyrt hafa, náðar Lærdóminn um Jesúm Christ? Og því skyldi ecki hljómur Evangelii géta heyrst hjá þessum hvørutveggju undir eins? Að eins þar séu nógir Erfiðarar til að reka Guðs Erendi í báðum Støðunum, þá vega þessi mótmæli eckert. Þar að auki er það víst, að þeir sem unna Missións Søkinni, eru eins ákafir, já enda ákafari, enn mótmælendur þeirra, til að efla sinna Landsmanna sálu-hjálp. Að ógleymdu því, að í søfnuðum þeim, hvar Fólk af hjarta ann Missiónsverkinu og leggur til þess, þar ser því merkjanliga sjálfu fram í sann-

leikans Vidurkénníngu, og vors Drottins og Frelsara Jesú Christí Náð og þeckíngu. Adrir bera þad í væuginn, „ad tíminn til ad umvenda Gydíngum og Heidíngjum sé enn ecki kominn." Gjætum ad, Brædur! hvad er þetta annad enn ad vilja setja skordur Evangelii útbreidslu, med ad dyrfast til ad takmarka tíman? Þad er líka sem ad vilja grípa fyrir hendur Gudi og setja hönum lög; og þad er ad setja sig í móti þessari Skipun Frelsarans: Farid út um allan heimin og kénnid öllum þjódum! Hvad er þad annad enn ad neita Ordsins krapti, neita því ad þad sé tvíeggjad Sverd, sem þreyngi sér inní merg og bein, og sá hamar sem klettana molar? Lítum, Brædur! til ávaxtanna sem Missíónsverkid borid hefur á þessum tímum: hvörsu Félaganna útsendarar hafa, med Guds adstod, prédikad til blessunar mörgum þúsundum heidíngja; hvörsu kénníngunni um Synda fyrirgéfníngu fyrir Jesúm Christ hefur med gledi verid móti tekid af ótal, í öllum heimsins áttum; hvörsu tala Jesú trúarjátenda hefur vaxid þar ár frá ári, hvar myrkranna höfdíngi ádur drottnadi; og hvörsu þeir sem ádur tilbádu mállaus skúrdgod, beigja nú sín kné fyrir almáttugum Gudi og hans Syni Jesú Christó. Af þessu sjest, hvad varid er í tal þeirra sem seigja: ad tíminn sé enn ecki kominn.

Já vissuliga, kristnir menn! hann er kominn, og kominn fyrir laungu, já kom á því sama Augnabliki, sem Jesús sagdi: Farid út um allan heiminn! Adeins ad ordid sé prédikad med hreinskilni; ad eins ad þeir, sem Missiónsverkid er á hendur falid, séu trúir; ad þeir taki ecki móti því einasta í von um jardneskan ábata, edur ad fá þess heldur gód braud heima í sínu Fødurlandi, þegar þeir ad nockrum árum lidnum koma til baka, heldur einúngis af hreinni alvøru, ad stoda til sinna medendurleystra brædra sáluhjálpar; já einúngis af kjærleika til Guds, sem elskadi oss svo, ad hann ei sparadi sinn eingétinn Son, heldur gaf hann út til þess, ad allir sem á hann trúa fortapist ecki, heldur hafi eylíft líf. Ad eins ad þeir sem gánga út ad prédika heidíngjunum Guds ord, athugi vel móti hvørju þeir hafi ad berjast, hve stórar hindranir þeim mæta kunni; ad þeir, nær þetta yfirvega, hugsi til hvad lítid þeir megni af sjálfum sér til, og snúi sér því, med audmjúkri bæn til hans, sem máttugur er í þeim breisku. Og loksins ad þeir útsendu ei prédiki Veraldarvísdóm, né brúki stoltrar Skynsemdar rædumáta, heldur einúngis þann einfalda, um Guds fríu nád í Christo Jesú, ad hann ei vilji syndarans dauda heldur ad hann snúi sér og lifi; ad hann án mismunar kalli alla

til sinnar nádar, og ad Christs dýrmæta blód sé úthellt fyrir alla til Syndanna Fyrirgéfníngar; ad eins, seigi eg, ad þeir útsendu svoleidis med hreinskilni prédiki ordid, vissuliga skal þad þá sýna sig ad tíminn er kominn, og ad Guds ord er kraptur Guds til sáluhjálpar, öllum sem því trúa; já sýna skal þad sig, seigi eg, ad Gud vill vistarveru gjöra hjá öllum heimsins þjódum, og ad hans lof og dýrd skal hljóma frá einu jardarinnar Skauti til annars.

Fleiri ad sönnu, en minnavægis mótmæli enn þessi, hafa gjörd verid móti Missións-verkinu, sumpart af þeim, sem hræddir eru um töpun jardnesks ábata vid Christnibodsins tilkostnad, sumpart af þeim sem kalla sig christna med munninum, en eru þad ecki í hjartanu, sem eru kaldir og kjæra sig eckért um útbreidslu Evangelii medal heidíngjanna, og eru hyrdulausir um allt þad sem vidkémur andligum éfnum.

En ad telja upp öll þessi mótmæli væri lángsamt, og ecki ómaksverdt, þar þaug hversa sem reikur fyrir storminum, þegar vér — sem hér erum samankomnir, fullir af heil. gyrnd ad styrkja Missións-Félagid — setjum oss fyrir sjónir þær sterku ástædur, sem skuldbinda hvörn christinn mann ad styrkja til Missións-verksins eflíngar; hvört efni vera skal þá inntak þessarar minnar rædu.

Sú ita ástæðan er þá þessi: „Það er vissuliga hin æðsta Skylda sérhvors christins mans að efla og útbreiða Guðsdýrð, dýrð þess miskunsama mannanna Foðurs." Já vissuliga eiga þessir að vera vors lífs mikilvægustu atburðir, að vér í þankum, orðum og verkum, hvar sem vér erum, seint og snemma, útbreiðum Lofgjörð Guðs Guðdómligu hátignar, og aðstoðum til þess að niðurlag hinnar heiloguſtu bænar: þitt er ríkið, mátturinn og dýrðin að eylífu! Amen!" gjæti hljómað af allra heimsins þjóða vorum. En, eg spyr, gjörum vér nú það, ef vér með fulda og skeytingarleisi gétum vitað til óstands heiðingjanna, sem umbreytt hafa Dýrð óforgeingiligs Guðs í líkíngu dauðligra manna, fugla, ferfættra dýra og orma? Ef vér tilfinníngarlausir heyrum það, að þeir beigja sín knè fyrir dauðum bilætum úr leyri og málmi í stað þess lifanda Guðs, hvörs eylífur kraptur og vísdómur sjest þó af öllum skepnudum hlutum; ef þetta tekur eckert á oss, Bræður mínir! þá meigum vér með blygðun viðurkenna, að Guðs Dýrð og æra er oss ecki sár, þar vér róligir gétum vitað til þess að Guðs Hátign spottist, að Guðs sannleikur gjörist að lýgi, og að Skèpnan tilbiðjist í stað Skaparans, sem blessaður er að eylífu. O hugsum til þess, kjærustu! að þar eru enn nú

til í heiminum þúsund þúsunda af fólki því, sem lifir í skélfiligustu afgudadýrkun, sem tilbidur sólu, túngl og stjörnur, í stad hans sem þetta skapad hefur, og því med sínu almætti vidheldur; þar eru enn nú þúsund þúsunda, sem tilbidja skynlaus dýr í stad þess alvitra, almáttuga og Algóda Guds; já þar eru þúsund þúsunda sem ecki þeckja þann sanna Gud, og enn sídur tilbidja hann í anda og sannleika; heilar þjódir og ættqvíslir sem ecki vita ad úttala þetta stóra álykltanar ord Jesú bænar: „Þitt er ríkid, mátturinn og dýrdin ad eylífu!" O, mínir Brædur! látum oss vel hugleida þetta, og renna augum vorum nidur í þessa daudans skuggadali, og af hjarta aumka mannsképnur þær, sem í þeim myrkrum búa og vita ecki fótum sínum forráð, hvörra trúarbrøgd eru þeim til plágu bædi á sálu og líkama; og látum oss svo til hugar koma, hvörsu háleit skylda þad er, fyrir oss, ad færa þeim ljós Evangelii, svo þeir ratad fái út úr myrkrum þessum, og þeckt þad sanna heimsins Ljós Jesúm, sér til andligrar og eylífrar blessunar. Látum oss því af allri alúd styrkja Missións-verkid, og þar med stoda til þess, ad þessi Eingla saungur kveda meigi vid í øllum heimsins áttum medal allra þjóda: „Þackir og heidur, og dýrd og kraptur frá eylífd til eylífdar, sé þeim sem á Stóln-

um situr og Lambinu!“ item: „Lambid þad sem slátrad er, er verdugt ad medtaka veldi og ríkdóm, vitsku og krapt, heidur, dýrd og þakklæti!“ Hallelújah!

Hin önnur ástæda til ad sanna Skyldu vora til útbreidslu Evangelii er Guds óendanliga nád og miskun vid oss, og hans stóru velgjörníngar, sem hann oss veitta hefur, bædi í andligan og líkamligan máta. Nú eru þúsund ár lidin sídan ad Gud lét nádarinnar sólu upprenna, á vorn födurlands himin, yfir forfedrum vorum*), "þeim er sátu vid meidsli og mein, í myrkri og daudans skugga;“ þá heyrdist fyrsti hreimurinn af þeim gledibodskap fyrir eyrum fedra vorra: „Christur hefur eittsinn lidid fyrir syndir vorar, sá réttláti fyrir rángláta, svo hann gjæti fært oss Gudi.“ Þá var Jesú krossmerki fyrst uppreist í landi voru, undir hvörju vér í hans krapti, sem hann „sigrad fáum synd og deyd, sjálfan djöful og vítis neyd“ og — hvör fær upptalid alla þá ómetanliga stóru velgjörnínga, sem miskunsemdanna fadir veitt hefur öllum þeim ættkvíslum, er sídan lifad hafa í landi voru?

*) Já þúsund ár í Danmörku, en 8 hundrud 29 ár, eru sídan Christni var lögtekin hér á Íslandi.

Hvør fær afmálad allar þær lífsætu verkanir, sem Christindómurinn, frá fyrstu útbreidt hefur yfir land vort; allar þær blessanir sem Gud med Evangelio hefur streyma látid yfir vora forfedur, og lætur enn nú, þann dag í dag er, streyma til vor, svo framt vér medtökum hans ord med gódu og sidsömu hjarta? Hugsum um þetta, Christnir menn! og setjum oss fyrir sjónir hve stór giædi þad eru, sem vér med Christindóminum feingid hösum; hvörsu stóra nád Gud sýndi fedrum vorum, þegar hann lét lífsins ord prédikast þeim, metta sálir þeirra fridi og fögnudi, og þar á ofan betra þeirra líkamligu kjör merkiliga. Já hugsum til, hvörsu óseiganliga vel ad Drottinn hafi vid oss giördt, med því ad láta sitt blessad ord gánga sem ad erfdum frá ætt til ættar, frá fedrunum til vor nidjanna, og ásamt því öll þaug óvidjafnanligu andligu giædi, Syndanna fyrirgéfníngu, réttlæti Christs og von eylífrar sáluhjálpar. Já, hugleidum þetta alvarliga, seigi eg, og munum vér hérí finna sterkustu Skulpbindíngu til ad kosta kapps um, ad þær jardarinnar Kynkvíslir, sem enn nú ei feingid hafa ad drecka af þeirri lífsins uppsprettu, sem er, í Jesú Evangelio, fái, fyrir þess prédikun, tækifæri til hennar ad koma, svo þær njóta fái hinna sömu andligu og himnesku giæda, sem vér af miskunsemd-

anna Fødur notid høfum. Eda skulum vér halda, ad þetta hóleita erfdagóts, sé oss einum til erfdar ætlad, medan svo margar þúsundir þúsunda enn nú til eru, sem eckert hafa af því ad seigja? Holdum vér, ad oss einum, og ødrum þeirra sem ad nafninu kénna sig vid Christum hinn krossfesta, sé unnt, ad njóta þess fridar og gledi, sem hans Evangelium veitir trúudum sálum, medan þús. þúsunda enn nú stynja undir Syndarinnar oki og samvitskunnar dómi, sem skrifadur er í hjørtum þeirra, og áklagar þá frekliga?

Holdum vér máské, ad vér einir eigum ad gledjast af ljóma hans, sem er heimsins ljós og líf, medan þús. þúsundir reika í vanþekkingar og daudans myrkrum? Eda skulum vér taka undir med vantrúarinnar sonum sem seigia: „Christindómurinn er ecki ætladur ødrum þjódum, enn þeim sem allareidu hafa vid honum tekid; hann sé þvílík trúarbrøgd, sem eigi vid nordurhálfunnar mentudu innbúa; sérhvørt land, sérhvør þjód hefur sína sidu og sína trú, er heuni skal ecki fyrirmunast ad halda, því þad er fullviss sannleikur: ad sérhvør verdur hólpinn af sinni trú! Ef vér svoleidis trúum og tølum, Brædur minir! þá sýnum vér bædi stakasta óþacklæti þeim algóda, og einkum hálfvelgju í vorum Christindómi; já sýnum oss ad vera vantrúud heimsborn, sem

tölum svo, af því vér aldrei reyndt höfum þær stóru og lissætu verkanir af sannri og stödugri trú á þann krossfesta. Vér stríðum þá móti orðum Guðs sem hann talað hefur svo víða í gamla testamentinu fyrir sína heil. Spámenn; t. d. nær hann seigir: „Eg vil samansafna öllum heidíngjum og túngumálum; þeir skulu koma og sjá mína dýrð; eg vil setja mitt merki á þá, og eg vil senda til þeirra lángt burtuliggjandi Eya; til þeirra, sem ecki hafa heyrdt neitt rikti af mér né sjeð mína dýrð." Vér mæltum þá á móti þeim almáttuga, nær hann seigir: „eptir mér er leitað af þeim sem ecki spurdu (áður) að mér; og er fundinn af þeim, sem ecki leitudu mín. Eg sagði til eins fólks, sem ecki var nefnt eptir mínu nafni: „sjá hér em eg!" líka því sem Esajas seigir: „hann mun ádreifa marga heidíngja; kóngar munu apturloka sínum munni fyrir hönum, því þeir sem það ecki er sagt hafa sjeð það, og þeir sem ecki hafa heyrdt, hafa skilið það." Vér stríddum þá móti Frelsarans og hans postula eigin orðum, því þeir bera allstaðar þann vitnisburð: „að fögnuður og farsæld af Jesú híngaðkomu skuli ské öllu fólki, og að Guðs vilji sé, að allir verdi hólpnir og til sannleikans viðurkenníngar komist."

Vér neitudum þá ogsvo þeim óhrekjanliga sannleika, um Christs dauda fridþægjandi krapt fyrir allar heimsins ættkvíslir.

Hefur hann ecki lidid fyrir alla án undantekníngar, til at útvega þeim eylífa sælu? Er ecki daudi hans eylíft fridþægíngar offur, svo vel fyrir þad heidna fólk í Asíu og Africu, sem fyrir oss og adra, er uppá þad treystum, af því vér þeckjum þad?

Hefur sá svarti Negri ecki sömu krosu til þess blóds sem útrann til synda fyrirgéfníngar á Golgatha, sem þú og eg, og hvor annar, sem heyrt höfum frá úngdómi þessi ord: „takid og dreckid; þetta er kaleikur hins nýa sáttmála í minu blódi!“ Sveittist ecki vor Jesús blódugum sveita í Gethsemane, eins fyrir þrælinn undir Indíalands brunabelti, sem fyrir þig og mig og sérhvorn annan, sem þeckt og reyndt hefur þá störu Guds nád: ad hann útgaf sinn eingétinn Son, til þess, ad allir sem á hann trúa, ecki skulu fortapast, heldur hafa eylíft líf? Mælti ecki Guds Sonur, ádur enn hann hneigdi sitt höfud á krossinum og dó, þetta ord: „þad er fullkomnad!“ eins vel í tilliti nidja þeirra sem hann á krossinn negldu, þeirra sem fylgja þeim falska Spámanni Mahómeth, þeirra sem sitja í syndarinnar fjötrum og myrkri nl. heidíngjanna;

mælti hann ecki, seigi eg. þessi ord, eins vel í tilliti þessara, sem þín og mín og annara, hvørjum bodadur hefur verid þessi blessadi Lærdómur: ad Guds Sonur lidid og dáid hafi fyrir heimsins syndir! Þá elskum vér víst ecki Christum sem oss ber, ef vér afskiptalausir erum um útbreidslu hans Evangelii medal heidíngjanna.

Eda vitum vér ecki, ad Gud hefur gefid honum heidíngjana til arfs?

Hefur hann ecki smurt hann til Kóngs, í hvørs nafni øll kné — á øllum jardarhnettinum — skulu beigja sig; og allar túngur vidurkénna ad hann sé Drottinn til Dýrdar Guds Fødurs? Hefur ecki Fadirinn afhendt honum ríkid, til þess ad allir skyldu elska hann, heidra hann og hlýda honum? Hefur ecki Fadirinn sett hann til sinnar hægri handar, til þess ad allir skuli vegsama hann sem Konúng eylífdarinnar og fursta Fridarins, sem stærri og voldugri er enn allir heimsins Konúngar? O látum oss, christnir menn! látum oss hugleida allt þetta! fyrst hvørsu stóra Velgjørd Gud hefur oss og vorum Forfedrum audsýnda med bodskap síns heil. Evangelii; þar næst hvørsu óþacklátir vér værum, ef vér ecki eptir hans vilja, leitudumst vid, ad þessi blessadi Lærdómur gjæti ogsvo komid þeim til eyrna,

sem enn nú ecki hafa feingid ad heyra hann, og hafa þó sama rétt til hans sem vér.; já látum oss enn framar hugleida, hvörsu dárliga vér mótimæltum Guds Spádóma Fyrirheitum, hvörsu litt vér mettum Jesú dauda fridþægjauda krapt, og hvörsu dausliga vér efla vildum tilbeidslu hans guddómligu hátignar, ef vér segdum og þeinktum: „hvad koma heidingjar vid oss, látum þá sjá fyrir sjálfum sér!" Neÿ, gefum ei svo gudlausum þaunkum rúm hjá oss, heldur látum oss þvert á móti, glada og fúsa, stóda til þeirra atburda, sem nú á dögum, fyrir Guds nád, gjörast til ad útbreida Evangelíum medal heidingjanna; og undir eins og vér þar til hvattir erum — og jafnvel óhvattir — rétta orláta hjálpar hönd til þessa, Gudi dýrdarsamliga, fyrirtækis.

Sú 3ja ástædan, er sýnir oss til þessa skuldbundna vera, — og á hvorja eg sérdeiliga víkja vil — er sá almenniligi kjærleiki til náúngans, hvad snertir Umsorgun fyrir hans tímanligu Velferd. Í þessu tilliti er og Skylda vor ad styrkja Missións-Félagid ecki allítit. Vér vitum ad Afleidsla heidindóms og Afgudadýrkunar er djúpleg fávitska, villudýrsligt Sidferdi, og stjórnlaus grimd og bardhögi. Hvad skal eg tala um þá stóru fákjænsku alls þess, sem íþróttum og vísindum vidkémur, alls þess fagra og góda sem

Gud gétid hefur til ad betra hjartad og upplósa Skilnínginn? Hvad um skört allra þeirra stóru blúnninda, sem borgaralig reglusemi, íí einu vel-lögudu Stjórnarstandi, megnar ad veita Mann-eskjunum? Hvad um þann grúa af hrædiligustu löstum, sem heidíngjar drýgia, í þeirri trú, ad ávinna hylli Afguda sinna? Hvad um þad Mord og Blódsúthellíngar, sem flýtur af þeirra trúar-brögdum? hvørsu þeir miskunarlaust reka frá sér sína gømlu Foreldra, þegar þeir géta ei leingur fyrir sér unnid; hvørsu þeir brenna konurnar lif-andi, af því sú vitlausa hjátrú skipar þeim þad; hvørsu þeir slátra úngbørnum sínum í þúsunda tali, til ad fridstilla sína daudlausu Gudi; hvørsu þeir drepa óvini sína sem fé, og eta svo upp þeirra líkami, sem vargar.

Þetta hørmuliga ástand medal heidíngjanna sem eingu tali tekur, ættum vér ad láta oss til hugar koma, vér, sem í svo mørg hundrud ára notid høfum, í tilliti vorra jardnesku kjara, hinna stærstu blunninda af christiligum stjórnar-hætti, vér ættum, seigi eg, ad hugsa til þess alvarliga; hve stór Skylda í þessu tilliti liggi á oss, ad gjøra gott vorum náúnga, hvørsu mjøg sú almenniliga mannelska bjódi oss, ad koma þessum vorum vesælu brædrum og systrum til hjálpar, og leggja þessvegna fúsir vorn Skérf

til þess, ad þeir ei framar stynja þursi undir byrdi þvílíkra hørmúnga. Af þessa sídustu ástædu hefi eg minst, ecki af því eg álíti hana eins mikilvæga sem þær ádurtøldu, heldur sekum þess ad hún, vid nákvæmari eptirþánka, getur þó stodad til ad gjøra Missíóns-verkid mikilvægara í vorum augum.

Svo víst þessvegna sem þad nú er vor hæleit Skylda í øllu tilliti, fyrst ad gjøra þann almáttuga Gud sem dýrdligastan, svo lofgjørd hans hljómi í øllum áttum; þarnærst ad vér med þakklæti minnust eigum Guds óendanligu nádar og miskunar, í hverri áqvardad er ad allrar jardarinnar kynkvísslir hlutdeild taki, og loksins ad vér audsýna eigum náúnga vorum adstod og kjærleika; svo víst sem allt þetta er, eins víst er og þad, ad vér hljótum ad vakta oss vid afskiptaleysi og kulda í tilliti útbreidslu Evangelii medal heidíngjanna, en þvert á móti af øllum mætti efla og frama þad stóra Augnamid, sem Missíóns Félagid hefur.

Ottumst ecki þó þad lítid sé, sem vér sumir gefid getum; Gud lítur ecki svo á hvad mikid, heldur hvernig vér gefum; hann lítur ecki á Stærd Summunnar, sem á þad med hverju hjartalagi vér látum hana úti. Hugsum til Smápeníngsins sem Eckjan gaf í Gudskistuna fordum; hug-

sum til þess, ad Gud leggur blessun sína svo til hins litla, sem hins stóra, því hann þarf einkis vid; og vér gjörum þad fyrir sjálfa oss enn ecki hann, ad efla þad sem gott er, í heiminum. Setjum oss fyrir sjónir, hvílík gledi sé ad heyra þad, ad sífeldt vex tala þeirra heidíngja, sem inngánga um lífsins port; ad hvar ádur drottnadi syndarinnar daudi og myrkur, þar ríki nú réttlætisins líf og ljós; ad þar sem opinber bannfæríng Logmálsins lá yfir öllum, þar prédikist nú sá himneski nádar-lærdómur. Ímindum oss þá gledi, ad vita til þess, ad þar sem ádur var fullt af eintómum syndaþrælum, þar gánga nú Guds börn hópum saman; þá gledi, ad sjá Syndara, sem feingid hafa fyrirgéfníngu; fángada sem ödlast hafa frelsi; sjúka sem fundid hafa þann rétta lífslæknir; já ad sjá þá, sem ádur voru reidinnar börn, hafa feingid þeckjanliga hlutdeild í Guds nád fyrir Jesúm Christ, og rétt til arftöku ásamt þeim sem innsiglader eru til eylífs lífs. Já ímindum oss þá gledi, ad sjá þá, sem ádur geingu til máttlausra Skúrgoda, liggja nú tilbidjandi í duptinu fyrir þeim eylífa Jehóva, og af hjartans grunni hrópandi: „Þitt er ríkid, mátturinn og dýrdin ad eylífu. Amen!"

Mínir christnu Brædur! látum oss þetta í anda skoda, og med fúsu og glödu gédi, med

einum huga, erfida áfram, til ad ná því stóra augnamidi: ad Dýrd Drottins skýni fyrir öllum heimsins ættkvíslum!

Launa krefjid þér ecki, þad veit eg; því fyrir eckert höfum vér feingid þad, fyrir eckert skulum vér géfa þad! en eitt vil eg þó minna ydur á, og þad eru eigin ord vors blessada Frelsara; þessi: allt hvad þér gjordud einum af þessum mínum minstu brædrum, þad gjordud þér mér! Amen.

Af rædu þessari höfum vér þá heyrdt nockrar af ástædum þeim, er gjöra oss öllum þad ad sannri Skyldu, ad stoda til Christindómsins útbreidslu um heiminn. Gjæfi Gud, ad sannfæríngar þessar gjætu haft góda Verkun, til þessa augnamids hjá morgum! Í upphafi rædu þessarar heyrdum vér gétid þess, ad Missíóns-verkid feingi þó sterk Mótmæli hjá sumum, enda Kyrkjunnar Lærendum. Eru þessir þó helst í þeirri Cathólsku Kyrkju, hvar ei er vid ödru ad búast, þar Páfinn hefur sett og setur sig, hid frekasta, móti Biblíunnar útbreidslu, enda þó hann sjálfur haft hafi þá, sem Christindóm útbreida látast medal heidíngjanna, á sína vísu.

En adferd útbreidslunnar er hin fráleitasta þeirri, sem þeir evangelisk-christnu brúka. Hinna

adferd er sú, ad samanblanda heidíngjanna trúarsiđi vid þad Cathólska, til ad locka med því þá heidnu, til ad fylgja sínum Sidum. Og nær þeir svoleidis hafa komid þeim, til ad fallast á þetta trúar samanbland, fullt af allrahanda hjátrú og hindurvitnum, þá skýra þeir þá straks, án þess ad skipta sér af nockurri regluligri uppfrædíngu eptir Ritníngunni, hvørri þeir halda duldri fyrir Fólkinu. Þessa adferd hafa Cathólskir brúkad vída í Austur-Indíum, og hafa med henni látist hafa umvendt heilum Milliónum til christiligrar trúar; en hvad í þá umvendun er varid géta allir nærri; hún er lítt betri enn sjálfur heidindómurinn. Enda vard hún og mjøg endaslepp, og komst í Forakt hjá sjálfum þeim er undir hana geingist høfdu, svo þeir allir edur velflestir falla frá aptur til sinnar gømlu trúar.

En sem þeir evangelisk-christnu tóku ad senda þángad christnibodara á nærstlidinni og einkum þessari øldu, fóru þeir og fara allt odruvísi ad rádi sínu. Þad Verkfæri sem þeir til christnibodsins brúka, er Biblian, hvørrar lærdómi þeir trúliga fylgja, og útbreida hana, af øllum kroptum medal Fólksins. Til ad verda Christinn, útheimta þeir — eins og Ritníngin — yfir allt fram, sannarliga betrun hjartalagsins, og skýra því eingan heidíngja, þó hann beidist

þess, nema þeir hafi ordid varir svo vissra merkja hjá honum til sannrar innvortis betrunar, sem mögulígt er. Nú þó á þennan hátt ávinnist fyrst í stad miklu færri til Christindóms, enn á hinn, er þó umvendan þeirra, sem svo ávinnast, þúsundsinnum betri enn hinna; þar hún er sönn enn hin aldeilis ramfölsk, og til eingra sálar nota. Þar á ofan breidir sú sanna umvendan sig óformerkt út med tímanum til annara, og verdur líka sem Mustardskornid, inn til þess hún verdur ad stórri eyk, í hvörri fuglar loptsins taka sér hreidur; en hin falska Christni, sem fyrst sýnist fljótt koma í blóma, visnar ódar upp og verdur ad hégóma. Svoleidis hefur þad tilgeingid um christnibodid í Austur-Indíum. Medal annara Missíónæra sem catholskir þángad sendt hafa, var einn rómverskur Prestur, sem trúliga fylgdi atferd sinnar Kyrkju, vid christninnar útbreidslu. Hans nafn er Dubois. Eptir 32 ár kom hann heim aptur til síns Födurlands, og gaf út, fyrir fám árum, Skrif um ástand Missíónanna í Austur-Indíum, af hvörjum hann lætur herfiliga; seigir þær séu ecki til neins, einginn af heidingjum umvendist vid þær, og þad sé ómögulígt þeim ad umvenda, og þessvegna ecki nema peninga spillir uppá Missíónir ad kosta. Í þessu tilliti skrifar hann svo um sjálfan sig: „Um all-

an þann tíma sem eg til Christninnar útbreidslu erfidad hefi í Indíum gét eg ecki hrósad ávexti ydju minnar, hvornig sem eg bar mig ad; þó eg lagadi mig eptir Landsins Sidum í mörgum greinum, tæki upp hleypidóma heidíngjanna, eins og þeir voru mínir, lifdi eins og þeir, og nærri því gjördist einn heidíngi, gat eg þó ecki unnid einn einasta til vorrar trúar; eg má játa, ad öll þaug ár, sem eg var þar sem kénnimadur medal þeirra, hefi eg ecki hitt nockurn einn, sem nefnast mætti sannur og hreinskilinn Christinn." Hann ber fram, ad allir sem látist hafa tekid christna trú, hafi gjördt þad í óhreinum tilgángi, svo af lifnadur þeirra sé verri enn siálfra heidíngjanna. Þetta Dubois Skrif gjördi mikil áhrif á hugskot ýmsra hér í Evropa, ecki einasta medal siálfra cathólskra, heldur og svo, því midur, medal lima þeirrar endurbættu kyrkju, svo þeir tóku ad leika á sömu nótur sem Dubois, og gjöra lítid úr Missiónum og þeirra notum, þar þeir ádur í þeli nidri hofdu haft horn í sídu þeirra. En aptur á móti hafa margir, med gildustu rokum sýndt *) hvörsu þessi Sogu Abótans

*) Sjá Dr. August Hermann Niemeyers neüere Geschichte der evangelischen Miss. Anstalten 64te Stuck p. 142. Archidiac. Henrich Vieb-

Dubois, sé aldeilis ósönn í tilliti þeirra evangelisku, hvorra Christnibods adburdir sá öll önnur afdrif enn Catholskra; en þessir forsmá allt hvad hinir gott verka, af því þad ecki er eptir þeirra skapi.

Ney, þad er bædi sögn og sannindi, hvorsu ad Christnibodan þeirra evangelisku, — svo vel Danskra (sem fyrstir hösu hana í því landi) sem og Þýdskra og Engelskra — hefur blessunarríkasta avöxt færdt medal heidingjanna í Austur-Indíum. Menn meiga óhætt seigja, ad nálægt árinu 1820 voru þar um 50 þúsund heidingja börn undir uppmentun í Skólum Christinna, og 160 Safnadir voru til af Christnudum heidingjum, i nordurhluta Indíanna.

Eru þó trúarbrögd þessara heidingja margbreytin. Afgudir þeirra eru ad tölu um 30 þúsund, og bilætin eru seld sem vörur á Torgunum. Þeir leggja miklar píntingar á sjálfa sig til ad fridþægja Gudi sína, og jafnvel deyda sig sjálfir, þeim til þócknunar. Ecki er svo fágjætt ad sjá þad, ad þeir stingi knífi gégnum túngu sína, og láti hana svo hánga útaf munninum.

---

heers Monatsschrift für Bibelverbreitung und Missionen 4 Jahrgang 7 Hefte p. 193. Pastor Rønnes Relig. Blad. 1 Aargang N. 15. 33. 43.

Stundum steikja þeir sjálfa sig við Eld, og leggja glóð sér á bert höfuð. Kvennfólkið er hjá þeim í mesta Þrældómi, og það gifta er framar sem forsmáðar ambáttir manna sinna, enn sem egtakvinnar. Svo reiknast til, sem 6 konur séu þar með hvorjum Sólarhring lifandi brendar. Með líki eins indianisks Fursta voru eittsinn brendar í einu 18 konur og 1 barn. Inbirling sú, sem þessir heidingjar hafa um eins Stands verdugleika framar odru, gjörir einhvorja þá stærstu hindrun Christnibodinu. Því að trúa því, að allir menn séu að náttúrunni til jafnir og hafi eckert réttlæti í Guds augum til að bera, vilja þeir ecki. Því þeim sem eru af hinu ædsta Standi þeirra á medal, nefnil. Brahmínanna (sem álitnir eru heilagir og rétt guddómligir) þykir óþolandi nidrun að teljast fyrir Gudi á somu troppu, og hinir sem eru af lægra edur lægsta Standi. Sona er manneskjan af náttúrunni stolt og sérgóð. Drambsemin var hin fyrsta orsøk til hennar falls frá Gudi, og hún verdur því jafnan hin stærsta hindran hennar apturhvarfs til Guds. Indianar hafa Guddóm, fyrir sérhvorn Lost út af fyrir sig. Þó finnast ljós merki til þess í trúarbrogdum þeirra, að þeir einhvorn tíma hafa haft Vedur af Biblíunnar Lærdómi. Þeir vísuftu medal þeirra trúa að

þar sé einn æðsti Guð til, undir 3 slags aðgreiningum, nl. Brahma, Vischnû og Sesa. Vischnû (stundum nefndur Krisnû), seigja þeir hafi opinberast hér á jörðunni, mönnunum til gáða. Hann hafi fæðst um næturtíð, að nálægum lofsöngjandi Einglum; hafi sofið midt á millum fjárhyrðara; síðan hafi hann flúið um nóttu, fyrir einum grimmum týranna, sem þá hafi látið drepa mörg smábörn, í hefndar þátt. Þessi Krischnû finst afmálaður í einu musteri sem sárpíndur, og og af einum höggormi bitinn í hælinn; en í öðrum stað er hann málaður sem sigurherra, er stendur með fætinum á eins höggorms höfði. Getið er og um að hann hafi upprisið af dauða, stígið niður í ríki hinna dauða, og síðan farið til baka til sinna dýrðligu heimkynna.

Auðskilið er, hvaðan þessar myndanir útsprottnar eru.

O! gjæfi Guð, að þessar þjóðir feingju réttiliga að þeckja Guð og þann hann sendi, Jesúm Christum. Það er ogsvo víst, eins og áður er sagt, að með það rétta Christniboð áorkast merkiliga þeirra í medal, hvað sem Dubois, og aðrir hans nótar, þar um seigja. Til að sanna það, vil eg hér framleiða nockur vitni: fyrst, ecki einn Missíónæra frá Evrópa, ecki einn Indíaniskan af lágu standi (sem óvildarmenn christniboðsins

ljúga, ad menn kaupi til ad játa Jesú trúarbrögd), heldur einn Brahmín (einn af þeirri ædstu og heilögustu Stiett medal Indíumanna, sem Dubois seigir, ad ómöguligt sé þó ad umvenda). Inntak úr bréfi hans, er hann skrifadi til tveggja vina sinna, er ásamt honum höfdu verid uppfræddir í Christindóminum, í skóla eins trúlynds Missíónæra, hljódar svo: „Eg er ángradur út af því, ad eg hefi eckert bréf frá yckur feingid, sídan eg skrifadi yckur til sídarst; annars lifi eg siálfur vel og luckuliga, og grædi andliga þeckingu æ meir og meir, sem eg reikna þá ædstu blessun. Æ! vér sitjum í skéfiligu myrkri og sálarháska, sem Syndin hefur steypt oss í, en til ad frelsa oss þar frá, hefur Gud sendt oss heil. Ritníngu, sem skýrir oss frá, á hvorn hátt ad Frelsarinn skyldi endurlausnarverkid framkvæma. Hann kom og opinberadi oss allt Guds rád, eins og um hann hafdi spád verid. Hugleidum nú, Brædur! hvort þad rétt sé, ad meta þad lítils, sem Gud hefur oss til frelsis gefid. Ef vér giörum þad, verdur þad oss ad eylífu tjóni. Í voru Landi eru þaug trúarbrögd, sem full eru af mesta villudómi og hégiljum. Allir hugsa ad sín trúarbrögd rétt séu, en medal allra trúarbragda géta þó ecki nema ein sönn verid. Um þetta vilda eg geta sannfært yckur.

Ockur og mér kémur saman um þad, ad Gud hljóti ad vera saunordur, réttlátur, hreinn, heilagur, miskunsamur, án ofundar og vondsku; hvörnig géta þeir þá Gudir verid, sem hafa svikid, logid, stolid, svívyrdt kvennfólk, myrdt, og eru fullir af ofund og illsku? Nú hafa þeir þó þvílíkir verid, sem vér reiknum fyrir Gudi. Gud fordi oss þeirri villu; og lofadur veri hann fyrir þad, ad hann hefur kénnt oss þvílíkan veg til frelsis, sem bædi er oss til blessunar og honum sjálfum til heidurs! og þennan lærdóm hefur vor Frelsari Jesús Christus opinberad oss. Ef þér berid lifnad hans saman vid þeirra, sem vér höldum guddómliga, þá skilur hann svomikid sem ljós og myrkur. Í honum er Guds réttlæti, heilagleiki og kjærleiki opinberadur. Og líka sem midðagssól skein hans kjærleiki fram í því: ad hann tók vorar Syndir uppá sig, bar þad Straff sem vér hofdum tilunnid, og gaf sitt Líf til Lausnargjalds út fyrir oss. Skyldum vér þá ecki elska hann, sem elskadi oss þegar vér vorum hans óvinir. Nú frambýdur Gud oss sitt Evangelíum; nú er sá þægiligi tími. Komum þar fyrir, mínir elskuligu Brædur! og bidjum vorn himneska fodur ad senda sinn heil. Anda í vor hjörtu, svo hann dragi oss til Jesúm; því án þess gétum vér ecki til hans komid, né trúad á hann.

Þér kannské viljið svara: Það er að vísu gott sem þú seigir, en ef vér gjörum það, þá missum vér vora Stétt (Caste). Eg svara: það kann satt að vera; en hvört er þá betra, að hafa æru hjá mønnum, edur hjá Gudi? Jesús vill ecki vidurkénna oss fyrir sínum himneska Fødur, ef vér vidurkénnum hann ecki fyrir mønnunum. Eda — seigid mér: gétur Stand ockar edur Stiett, gjørdt ockur sáluhólpna? Ney, lángt frá! miklu framar kann hún að hindra vora sáluhjálp. Og hvad rídur þá á, þó vér tøpum henni! Er ecki lángt skærri æra að vera Guds barn, enn í Brahmínanna tølu? Hugsum til þess, Brædur! hvad skrifad stendur Opb. 21,7.8. Sá sem sigrar, hann skal erfa alla hluti; eg vil vera hans Gud, og hann skal vera minn Sonur! en þeir hrædslugjørnu, þeir vantrúudu, vidurstyggiligu, manndráparar, Saurlífis-menn, afgudadýrkarar og Ligarar, þeirra hlutfall skal vera í díkinu, sem vellur af eldi og brennusteini! Hvört er nú betra að sigra og erfa alla hluti med Gudsbørnum, ellegar af ótta fyrir að missa heimsins æru, þora ecki að vidurkénna sinn Gud, og meiga svo med afgudadýrkurum kastast í eylífan eld. Gjætum vel að þessu, Brædur! Nú yfirstendur Stríðsins

tími, en einginn sigur fæst nema stridt sé. En þjáning þessara tíma, er ei verd þeirrar dýrdar, sem á oss mun opinberast. Eg kann og ad seigja þad af eigin reynslu, ad eptir því sem madur smackar betur Jesú kjærleika, verdur allt þetta stríd léttbærara. O minir elskuligu Brædur! eg vona nú ad þér hleypidómalaust lesid og yfirvegid hvad eg skrifa ydur, og ad eg fái þá gledi, ad frétta gódan avøxt af ydar yfirvegum!"

Þannig hljódar nú stutt inntak af bréfi þessa christnada heidingja, og má sjá hvørsu Guds andi hefur verkad í hans hjarta; því einn evangeliskur Prestur kunni ei betur ad tala.

Þyki nú dæmi þetta heldur til einstakt, þá vil eg framleida annad enn nú merkiligra, hvar ecki einn, heldur þúsundir heidingja í einum rómi, adhyllast Christindómsins blessanir. Einn Missiónæri, ad nafni Dúrr, hafdi tekid sér adsetur í einum Stad er Cúlna heitir í Austur-Indium, hvar fleiri enn 50 þúsundir afgudadyrkenda búa, en eingir adrir. Hér leitadist hann vid ad erfida í andanum til upplýsingar þessum vesælu heidingjum. Og Gud gaf þad, ad þeir, móti allri Von, feingu þvílika tiltrú og elsku til hans, ad þegar þad rómadist, ad hann ætti ad kallast frá þeim aptur til Calcútta, þar sem Missións-Stjórnin hefur sitt adsetur, tóku sig saman þeir

yppurstu menn Stadarins og skrifudu audmjúkt Bónarbréf til forstødumannsins, Erkidjáknans Corrie, svo látandi:

„Vor Heilsan til Presssins Hra Corrie fyrirfram. Gud géfi hønum lánga lífdaga! Innbyggjararnir í Cúlna koma fram med fylgjandi audmjúka Bæn: þad hefur gjørt oss yfirmáta stóra gledi, ad þér hafid viljad stipta Skóla vor á medal, því þaraf hafa børn vor mikla lucku haft. En nú berst oss ad eyrum, til stærstu Sorgar, tregu sú, ad vorum Dýrmæta kénnifødur Hra Dúrr, sé, vegna Sýslana sem hann hafi í Calcútta, ecki møguligt ad vera leingur hjá oss, og ad skólunum eigi þessvegna aptur ad loka. Vér játum, ad vér í fyrstu høfdum ama á ydar heil. bókum, en sídan vér, fyrir tilhlutun vors kénnifødurs Hra Dúrrs, høfum feingid nákvæma þeckíngu um þeirra innihald, þá er allur sá ami og égéd horfinn burt úr hjørtum vorum, svo vér erum aldeilis ordnir sannfærdir um, ad bækur þessar eru mjøg uppbyggiligar, og verdugar þess ad móti þeim sé tekid. Vér vidurkénnum, ad med því ad verda þeim kunnugir, høfum vér notid stærsta velgjørníngs, og vér gledjumst yfir þessari Lucku, eins og einn blindur, sem sjáandi er ordinn. Vér undirskrifadir bidjum þessvegna audmjúkliga, í nafni allra Stadarins innbygg-

jara, ad þér leifid þad, ad þessi vor kénnifadir meigi hjá oss vera. Hann er einn ypparligur lærdur madur, og fridsamur vid alla. Ef þér nú látid eptir oss þessa beidni vora, þá munu ecki ad eins børn vor hafa blessun þar af, heldur mun og morgunrodi þeirrar sønnu þeckingar líka svo upprenna yfir oss þinum fullordnu." Undir þetta bréf voru skrifadir 15 af Stadarins yppurstu mønnum.

Missións-Stjórnin lét þad svo eptir ad Hra Dúrr mætti hjá þeim kyrr vera. Nú af því þad var Missións-Félaginu ofkostnadarsamt, ad láta handa Hra Dúrr byggja þar í stadnum íbúdarhús á evrópiska vísu (þar Cúlna liggur 18 mílur fyrir nordan Calcútta), þá hefur hann sjálfur uppbygt þar handa sér hyttu, eptir Landsins vana, hvar hann midt á medal margra þúsunda af Skúrgodadýrkurum, lifir, sem einn Christs Sendibodi, gladur og ánægdur, og leggur kostgjæfiliga, medal svo vel eldri sem yngri, grundvøll Jesú nádarríkis í innbyggjaranna sálum.

Loksins þad þridja dæmi, sem eg til vitnis framleida vil — og ei er minst í varid — er þad: ad hid engelska Félag til Christindóms útbreidslu hefur nýliga skiptad 9 Missióner í Sudausturindíum, og þad gjørir sér svo fullvissa Von um, ad þeir adburdir sinir muni, fyrir Guds náð,

vellnckaſt, ad fyrir utan þeſs Félags reglulign Inntektir — ſem miklar eru — hefur þad tekid til láns uppá 2 tunnur Gulls, til ad géta ſtadid koſtnadinn, og upphvetur því ſína medborgara til ad auka þeirra venjulign kjærleiks gáfur. I þeſſu Félagi eru fleſtir af Englands Biſkupum og upplýſtuſtu mønnum, ſem viſſuliga mundu ei í þetta rádiſt hafa, nema þeir af reynſlunni væru fulltrúa um, med Guds hjálp, ad géta nád ſínu góda augnamidi.

Sá er þeſſara Miſſiónsſtiptana vandi, ecki einkoſtar ad leitaſt vid ad umvenda heidíngjum yfir høfud, heldur og ad gjøra þá, ſem þeir hæfiligaſta finna, ad Miſſiónærum, medal Landa ſinna, ſem opt verkar mikla bleſſun; því þeſſir ecki einaſta ſkilja beſt ſinna Landsmanna mál, heldur og eru kunnugaſtir þeirra ſinnislagi, lifnadarmáta og ſølſku trúarjáſtædum. Medal þviliкra var einn ad nafni Biſuvaſanaden (hvørn hinn ſæli Miſſiónari Schwarts uppmentad hafdi); hann erfidadi nockur ár medal Landsmanna ſinna, og hans rádvendni, hógværd og hæfiligleiki ávann honum ecki einúngis kjærleika þeirra chriſtnndu heidíngja, heldur og ſvo Mahómetaniſkra og heidinna. Prédikanir hans og bænagjørdir vora addáunarverdar. Þeſſi madur hafdi í 4 ár ſnúid meira enn 2 hundrud 33 heidíngjum til

christiligrar trúar; og þetta géfur glöðustu vonir um lukuligan ávöxt Christnibodsins í þeim löndum, þar Guð opnar svo dásamliga trúarinnar Dyr fyrir heidíngjunum.

Mörg fleiri dæmi mætti nú til þess leida, hvílíka dýrdliga ávexti christnibodid færir í austurhálfu heimsins, og ad í mótsagnir þeirra, er því neita, sé eckert varid. Lifnadur hinna umvendtu heidíngja lýsir og berliga þeirri hjartans sönnu betrun hjá sumum, því þeir bera af morgum Christnum í því tilliti. Eg vil hér minnast á afgáng tveggja þvílíkra:

Fyrst eins 15 ára gamalls únglings ad nafni Sooroopattam. Hann deydi úr Sjúkdómi þeim er chólera nefnist, sem mikid skjædur er og opt geingur í austurlöndum. Þegar hann lá sína banalegu, taladi hann til Skólabrædra sinna á þennan hátt: „hvor sá sem leggur höndina á plóginn, og lítur til þess sem til baka er, sá er mín ecki verdugur, sagdi vor Herra, þar fyrir skulud þér, sem undirbúast eigid til ad verda Christnibodendur medal Landsmanna ydar, vera kostgjæfnir og trúir í því verki, nær þér takid þad fyrir ydur." Sídan voru lesin fyrir hönum ord þaug er standa hjá Mich. 2,10; ad hvorju búnu hann tók í hönd sérhvors af þeim er nálægir voru, en tadmadi skyldinenni sín ad sér, og sagdi: „bidjid nú öll fyrir mér, á himnum vil eg minnast yckar!" Þareptir spurdi eg hann ad fleiru (skrifar Missíónarinn Sawyer), til ad géta ordid sem sannfærdastur um sálarástand hans: „Þad sýnist sem þú sért mikid róligur, sagdi eg, sprettа þessi þin rólígheit út af fridi þeim, sem þú hefur í hjarta þinu? Já, svaradi hann. Ségdu mér þá, mælti eg, hvad fyrir einn fridur þad er? Þad er fridur Guds, ansadi hann. Hvornig hefur þú gétad ödlast þennan frid? spurdi eg; fyrir trúna á Jesúm Christ, var hans svar. Fyrir hvört medal ert þú christinn ordinn? spurdi

eg; fyrir prédikun Guds ords, svaradi hann. Hvør Lærdómur Gudsords, spurdi eg, hefur þá mest tekid á hjarta þitt? Hann svaradi þessi: þad er sannarligt og yfrid dýrmætt ord, ad Jesús Christur er í heiminn kominn synduga menn sálu-hjólpna ad gjøra!"

Þegar eg sá nú, ad af þessari úngu mann-eskju tók enn framar ad draga, hætti eg ad spyrja hann. Hér eptir sat hann uppi stundarkorn, studdur af 2 edur 3 persónum, allt til þess hann bad ad leggja sig nidur aptur, og sagdi þá med óreynslu: nú gét eg ecki talad meira; lofid mér nú ad vera fyrir sjálfan mig. Hann var sídan lagdur út af, og þá andadist hann.

Þannig vard nú Gud heidradur med dauda únglíngs þessa, og hans christiliga rósemi gjørdi sterk ábrif á hjørtu hans Skólabrædra, og Þjón-ustufólksins, sem þar nálægt var. En þegar nockrir heidíngjar fréttu þessar kríngumstædur, søgdu þeir: kraptur Guds hefur komid yfir hann!

Sá annar christnadi heidíngi, er eg vil um-géta, hét Vesuvasum; hvørt nafn ad þýdir „trúa" á þeirra túngu. Hann hafdi verid stýrdur ásamt øllu þans húsi, og fylgdi — svo leingi eg þeckti til hans — trúliga kyrkjunnar reglum. Þegar vid hann var talad, var hann fáordur, en þeinkti þess betr eptir því talada, og vard sannfærdur um þann guddómliga Sannleika. Hann hafdi mikla gledi af Guds þjónustugjørd og prédikun ordsins. Þess vard eg helst var næsta Sunn-udag ádur hann deydi, þá eg í Prédikun minni taladi um umvendun eins Syndara til Guds. Hann hlustadi þá med þvílíkri gaumgæfni á rædu mína, eins og sá er ecki ætti nema fáein fet ófarin til grafarinnar. Í nærstkomandi Viku vard hann af þeirri skélfiligu chólera gripinn, sem og innan fárra stunda gjørdi enda á Lífi hans. Í bland tók hann nýja testamentid og las í því, en þess á milli badst hann hjartanliga fyrir, ad Gud

vildi sverka hjá sér sauna ydrun og rétta trú, þar eptir féll á hann hastarligt aungvit, eins og edli þessa Sjúkdóms er. Þá kom inn til hans einn heidinn Prestur, ásamt nockrum skyldmennum hans; ad líkindum sendur af nágrønnum hans, til ad lækna hans sjúkdóm, og koma honum til ad falla frá Christindóminum. Þessir vildu telja hann til ad offra Godunum, sem hann svo leingi hefdi vanrækt, sogdu þeir; og til ad láta þryckja heidindóms merkinu á enni sitt, og héu honum fyrir þad heilsubót. Enn hann svaradi: „erud þid komnir til ad fordjarfa sálu mína? þeim Gudi sem mér hana gaf, vil eg hana aptur afhenda. Þid seigid, ad eg muni ecki deya, ef eg offra Godunum. Þad er ecki satt! því deya ecki margir ydar líkar úr þessum sjúkdómi? Eda munud þid sjálfir géta daudan umflúid? En ef ad þid deyid í óbetrudu standi, þá er yckar fortøpun vís; en þó eg nú deyi, skédur þad med þeirri føstu fullvissu, ad eg fá muni ad vera hjá Drottni allatíma." Eptir þetta bad hann þessa menn ad fara í burtu frá sér. Til konu sinnar og barna sagdi hann: látid ecki afvegaleida ydur af tali þessa fólks. Gud hefur frelsad mig úr þeirra snørum, því hann vill taka mig til sín. Gegnid ecki lygum þeirra, heldur gjørid ydrun og trúid Evangelío! Eg veit ad eg hefi verid stór syndari; en eg hefi líka opt sárbænt Gud um Fyrirgéfníngu og frid sálarinnar. Nú sem Daudinn adkémur, gét eg med gledi dáid og afhendt Gudi Sálu mína. Brádliga mun eg vid yckur skilja, og Gudi sam einadur verda. Trúid á hann af øllu hjarta, og mun hann gánga yckur bædi í Egtamanns og Fødur stad.

Eptir tal þetta vard hann aldeilis máttþrota, og ad litlum tíma lidnum, heyrdi eg hann seigja: ó minn Herra Jesú! taktú mig nú í ríki þitt! og þegar hann hafdi þessi ord mælt, andadist hann.

Lofadur sé Gud fyrir allra sinna barna Frelsi.